# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., OKTÓBER 1894. | 10.

## TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

-:o:-

### V. HVÍ OPINBERAR GUÐ SIG EKKI?

Í þetta sinn er umtalsefni vort um það, hversvegna guð opinberi sig ekki fyrir mönnunum, svo að allar efaspurningar vorar hverfi. Hví erum vér látnir vera í þessum efa, í þessum deilum og með svo misjafnar skoðanir á honum? Hví er ekki alt opið og ljóst fyrir augum vorum?

Ef að vér opnum bók eina um kristnar kenningar eða kristinna manna sannanir, er skrifuð er þessi hin seinustu hundrað árin, þá munum vér fljótt sjá, að hún byrjar að byggja á því, að svo framarlega sem til sé skyni gæddr persónulegr guð, er hirði nokkuð um velferð manna, þá getum vér vissulega vonast eftir því, að hann opinberi sig fyrir oss. Og með því að menn þeir, er haldið hafa fram þessum kenningum, ekki hafa þekt neina bók líklegri til þess að hafa inni að halda opinberun þessa, en ritninguna, sem kölluð er, þá er það mjög eðlilegt, að þeir slái því föstu, að ritningin sé þessi opinberun guðs. Án þess að fara mörgum orðum um þetta vil ég þegar geta þess, að ég fellst á hið fyrra atriðið að fullu og öllu. Ef að guð er til, skyni gæddr, með sjálfsvitund og kærleika, faðir vor, er hefir ást á mannkyninu, þá höfum vér fullan rétt til þess, að vonast eftir því, að hann

opinberi sjálfan sig. En hér verðum vér þegar í byrjun athugana vœra að fara varlega, og gæta að tveimr eða þremr atriðum, er vér þurfum að skýra vel fyrir oss, áðr en lengra er farið.

Það er þá fyrst, að flestir þeir, er um efni þetta hafa ritað hafa tekið það sem sjálfsagt bæði, að vér getum vonast eftir opinberun, og svo hljóti hún að vera óskeikanleg. En ég ætla að segja það þegar í stað skýrt og skýlaust, að ég trúi því ekki, að til sé nokkur nauðsyn eðr þörf á óskeikanlegri opinberun í trúarefnum; engu fremr þar en í hverju öðru máli; það er að segja, ef að guð er ekki vera sú er eilíflega fyrirdæmir eigin börn sín fyrir það, að hugsanir þeirra eru ekki allar steyftar í sama móti, þó að þau hafi kann ske gjört það sem þau gátu til þess að fræðast um sannleikann, — ég segi að ef guð er ekki þess konar vera, þá höfum vér engu meiri þörf á óskeikanlegri opinberun í trúmálum, en óskeikanlegri opinberun í vísindalegum eðr listalegum eðr iðnaðarlegum málum.

Enn er það, að auk þess að vér erum lausir við alla þess konar þörf, þá kemr þessi opinberun mér fyrir sjónir sem hrein og bein vitleysa og ómöguleg eftir hlutarins eðli. Hugsum snöggvast um, hvað þetta þýðir. Hér er ekki spurningin um það, hvort guð geti óskeikanlega opinberað sjálfan sig, heldr er spurningin um það, hvort skeikulir menn geti óskeikanlega hlustað, óskeikanlega þýtt og óskeikanlega fært í letr eða frásögn. Óskeikanleikinn má vera svo mikill sem hann vill frá hinni guðdómlegu hlið, en fyr en mennirnir verða eitthvað meira, en óskeikulir, getr það ekki verið villulaust frá mannanna hlið. Hversu skýrt sem ég tala við ungbarn eitt, þá getr barnið að eins skilið það, sem hin barnslega sála þess er fær um að grípa eða skilja. Og þó að Newton talaði heilt ár við Indverja viltan í Norðr-Ameríku, þá mundi Indverjinn eigi skilja Principia hans og það, sem hann eigi skilr, er hætt við, að hann leggi rangan skilning í. Það er eigi ólíklegt að næst, er hann segir nágrönnum sínum frá því, hvað Newton hafi sagt sér, þá segi hann ekki fyllilega rétt frá. Hann hefir kann ske gleymt einhverju af því, eða hann hefir bætt einhverju við það, sem Newton sagði honum. Þannig liggja þúsund villur opnar fyrir.

Enn er eitt. Ef menn vilja út í það hugsa, þá er það hvorki meira né minna en vitlaust og eftir hlutarins eðli ómögulegt fyrir ótakmarkaða, óendanlega allsherjar veru, að opinbera sig sem ótakmarkaðan óendanlegan allsherjar drottinn, fyrir endanlegri og takmarkaðri veru

Hér er eigi spurningin um það, hvort guð vilji opinbera sig fyrir manninum eins og hann er, alla sína tign og mikilleik, heldr er spurningin um mögulegleikann á því. Hinn almáttugi getr eigi gert það, sem er vitlaust eðr ómögulegt. Sjálft almættið getr eigi gert ferhyrndan flöt, án þess flötr sá hafi fjórar hliðar. Sjálft almættið getr eigi gjört stafprik eitt, án þess það hafi tvo enda. Sjálft almættið getr eigi verið vitlaust, og svo er um hinn ótakmarkaða, sem ótakmarkaðr getr hann eigi opinberað sig takmörkuðum manni. Setjum svo, að vér værum á miðju fastalandinu, hefðum aldrei sjóinn séð, né heyrt um hann getið, en nú kæmi einhver og vildi sýna eðr opinbera mér úthafið, hvernig fer hann að því? Má ske hann reyni að lýsa því fyrir mér í orðum. En ég get ekki lagt þann skilning í orðin sem hann, nema ég hafi séð úthafið sjálfr. Setjum nú svo að hann komi með fötu fulla af sjó og segi mér, að þarna sjái ég nú úthafið. En það er þó aldrei nema fata ein hvaðan sem hún er komin. Maðr þessi takmarkast af aðferð þeirri er hann hefir til þess að opinbera mér þetta. Þannig getr hinn ótakmarkaði ekki opinberað sig fyrir takmörkuðum mönnum, af því að mátarnir að opinberast á eru takmarkaðir á alla vegu.

Þá er enn annað og er það það, að menn segja á þessa leið: „Ef að ritningin er ekki óskeikanleg, ef að vér ekki getum haft óskeikanlega opinberun úr einum eða öðrum stað, hvernig getum vér þá orðið vísari um sannleikann?“ En er svara skal spurningu þessari, er fyrst að gæta þess, að margir eru þeir hlutir, sem menn gjarnan vildu fá einhverja vitneskju um, en þó gjörir það lítinn mun, hvort menn vita hið sanna um þá eða ekki. Mönnum þætti t. d. mikið varið í það að vita hver hefði verið höfundrinn að kvæðum Hómers. En í rauninni er það alls eigi áríðandi fyrir hina 19. öld, hvort maðr sá er ritaði og kvað Hómers kvæði, skrifaði nafn sitt með fimm eða átta stöfum, eða hvort hann lifði í þessari eða hinni borginni. Hið sama má segja um líf og kenningar Jesú Krists. Þótt mér væri sannað að aldrei hefði lifað neinn maðr að nafni Jesús Kristr, þá mundi það ekki snerta hina minstu ögn kenningar þær, sem honum eru eignaðar, og sem vér eigum að lifa eftir. Vér leggjum vanalega miklu meiri áherslu á það, sem vér aldrei getum vitað með vissu, en vér höfum rétt til að gjöra. Þetta og annað eins myndi aldrei gjöra heiðarleikann óheiðarlegan, hreinleikann óhreinann, eðr kærleikann fullan fjandskapar. Það myndi alls eigi snerta grundvallarreglur lífsins. En hvernig getum vér þá

vitað hvað sé satt eðr eigi? Vér getum vitað það að eins á þann hátt, sem þekkst hefir í heiminum frá alda öðli. Vér lærum að þekkja, hvað sé satt, og hvað sé gott af eigin reynslu vorri. Hvernig verðið þér þess vísari, hvort hlutr einn sé hvítr eða svartr? Engum manni hættir við að villast á sykri og ediki. Vér getum sagt hvort hlutr einn er ljótr eða fagr, og sama er um meginreglur lífs vors. Hvar í heimi sem er þurfa menn að prófa þær með reynslunni, það er enginn annar vegr til. Þeir hlutir eru góðir, sem reynsla manna segir þeim að séu það, en þeir hlutir eru vondir, sem reynslan segir mönnum, að séu þeim skaðvænir á einn eðr annan hátt.

Af þessu getum vér séð, að engin vandræði eru á því að skera úr, hvað sé rétt eðr rangt, hvað sé gott eðr ilt. Og þó að vér hefðum fengið um það opinberun, sem oss væri sögð óskeikul, þá gjörði það hvorki til né frá. Hin eina aðferð, sem vér gætum haft til þess, að vita, hvort opinberun ein væri rétt eðr eigi, væri mannleg reynsla. Hún er hinn einasti prófsteinn opinberunarinnar. Það hefir æfinlega verið svo, hvort sem mönnum hefir verið það ljóst eða ekki, og verðr svo um alla ókomna tíma.

Nú skulum vér líta á spurninguna frá því sjónarmiði, hvort guð geti opinberað sig mönnuuum á þann hátt, sem hann er látinn koma fram í þjóðsagna og goðsagna hugmyndum heimsins. Það er þá ætlan margra, bæði karla og kvenna — án þess að hugsa út í það, — að það sé sjálfsagt, að guð geti opinberað sig óskeikanlega án þess nokkur efi sé á því, og á ótal vegu. En nú skulum vér skýra þetta fyrir oss með því, að skoða hvernig menn hafi hugsað sér það. Vér skulum þá fyrst tala um holdtekjuna. Setjum nú svo, að guð hefði ráðið það af, að koma í heiminn í manns mynd, hvort mundi hann á þann hátt geta gefið oss óskeikanlega opinberun af sjálfum sér? Hvað væri hann nú þegar hann væri til vor kominn? Til þess að skýra takmörkun hinnar guðdómlegu veru Krists segja klerkarnir oss, að guð hafi svift sig sjálfan dýrðinni, að hann hafi kastað frá sér almættinu, að hann hafi hætt að vera alvitr, að hann hafi lítillækkað sjálfan sig og gjört sig að manni. Vér skulum nú setja sem svo, að þetta sé rétt. En hvað höfum vér þá eftir, þegar guð er hættr að vera guð í fyllingu guðdómsins og er orðinn að manni? Hann er þá eigi lengr guð, heldr maðr. Þetta er sams konar hugmynd og ég gat áðan um, tilraunina að flytja Atlantshafið upp í Missisippidalinn í fötu einni. En þá er það eigi lengr At-

lantshafið með sínum miljónum fiska og skipum og eyjum og straumum, heldr fata ein af sjó. Eins er það, ef að guð kastar frá sér almættinu, óendanleikanum og ódauðleikanum, en tekr á sig takmörkun og mannlega mynd, þá getr hann ómögulega með því móti opinberað guðdóm sinn. Hið mesta, sem hann á þann hátt getr opinberað er fullkominn manndómr, því að hann er þá orðinn maðr. Sökum þessa getr hér eigi verið að tala um neina ópinberun guðs, er gangi fram úr mannlegri fullkomnun.

Tökum nú annað dæmi. Setjum svo, að guð hafi ráðið það af, að innblása spámann einn til þess að opinbera vilja sinn. Hinn einasti máti fyrir oss að geta vitað, að þessi opinberun væri óskeikul, er einmitt þessi mannlega reynsla, er ég hefi um talað. Ef að spámaðr þessi segði, að hann væri óskeikanlega innblásinn, þá væri það opið fyrir hverjum einum, að rannsaka, hvort þessi framburðr hans væri réttr eða eigi. Það gæti vel verið, að hann segði það í alvöru og einlægni, en hefði þó alveg á röngu að standa. Ég get eigi hugsað mér nokkurn veg fyrir hann, að sanna skýlaust þenna framburð sinn. Og þó að hann kæmi nú með einhverja opinberun, þá væri það einungis til þess eða þeirra, sem fyrst heyrðu hana. Það yrði mannleg frásaga, mjög svo mannleg, ef til vill meira eðr minna ósönn, eins og vér höfum rekið oss á yfir heim allan, undir eins og frásagan var komin af vörum sjálfs spámannsins, er fyrstr sagði hana.

Setjum nú svo, að guð skyldi ráða það af, að tala úr himninum yfir höfðum vorum og skýra fyrir mönnum tilveru sína og opinbera mönnum eiginlegleika sína, þá hlyti hann að tala á einnar eðr annarar þjóðar tungu. Þetta yrði að eins boðskapr til þeirra er heyrðu það; því að skeikulir menn yrðu að þýða hann á aðrar tungur. Það yrði því mannleg frásaga og ekkert meira til hinnar næstu kynslóðar og allra eftirkomandi kynslóða heimsins, sem hægt væri að misskilja á þúsund vegu, rangþýða og rangfæra á allan hátt. Í Nýja Testamentinu er frásaga ein, sem getr gefið mönnum góða hugmynd um þetta (sýn Páls á veginum til Damaskus). Þar er það sagt, að við tækifæri eitt hafi ljós mikið skinið yfir vissan mann, og rödd ein talaði til hans út úr ljósinu. Í sambandi við þetta er á sama stað sagt, að sumir af fylgdarmönnunum sáu eitthvað, en heyrðu ekkert, en að sumir hafi heyrt eitthvað, en ekkert séð. Við annað tækifæri er það sagt, að rödd úr skýji hafi talað við sjálfan Jesúm, en þeim, sem á hlustuðu bar eigi

saman. Sumir sögðu, að það hefði þrumað, sumir sögðu að það hefði verið rödd guðs. En nú sér hver maðr, að það er fábjánaskapr einn, að ætla að þetta og annað eins, sem þannig er misskilið, geti verið guðdómleg opinberun. Hvað ætlið þér að vér segðum, ef að komið væri til vor með þá sögu, hundrað ára gamla, að einhver maðr í Evrópu hefði heyrt rödd guðs tala til sín af himnum ofan? Enginn maðr með viti mundi trúa því. Að minsta kosti hefðu menn fullan rétt til þess, að rannsaka hvað væri satt í því. Fyrst og fremst þyrfti maðr þessi að hafa heyrt upp á víst, hvað röddin hefði sagt, honum mætti ekki hafa misheyrst, svo hefði hann þurft að hafa fulla dómgreind til að skilja, hvað það var. Misskilningr í þeim efnum er ekki góðr. Með öðrum orðum, þetta hefði ekki getað verið hin óskeikanlega rödd guðs, heldr að eins mannlegr vitnisburðr um það, sem skeikull eða óáreiðanlegr maðr þóttist hafa heyrt.

Nú skulum vér enn taka annað dæmi. Setjum svo, að guð hefði farið að skrifa bók eina. Setjum svo að hann hefði skrifað hana með sínum eigin fingri — en til þess að gjöra það, hefði guð þurft að setja á sig fingr, það er að segja, hann hefði þurft að takmarka sjálfan sig, stíga niðr á tröppuna til mannsins til þess að gjöra það; en setjum nú svo, að hann hefði gjört það — að hann hefði skrifað algjörlega óskeikanlega bók. Hann hefði þó þurft að skrifa hana á einhverju af hinum mörgu tungumálum jarðar. Sú bók hefði þurft að þýðast á allar aðrar tungur, og hefði því verið hætt við misskilningi og rangri þýðingu á allar lundir. En setjum nú svo, að hann hafi skrifað hana á sama tíma sjálfr á öllum tungumálum jarðar. Það lítr nú fremr vel út í fyrstu, en hver maðr, sem nokkuð þekkir til tungumála, hann veit það, að tungumálin eru sífelt að fæðast og deyja, rétt eins og mennirnir.

Og ef að bókin hefði verið skrifuð á hinni ensku tungu frá 14. öld, þá mundum vér nú ekki geta lesið hana öðruvísi en í þýðingu. Og svo er annað, að mannleg tunga er ófullkomin til þess að skýra hugmyndir til fullnustu. Ég hygg að enginn möguleiki sé á því, að nokkur lifandi maðr geti klætt í mál hugmyndir sínar um eitt eðr annað efni þannig, að ómögulegt sé að fá út úr því annað, en eina, að eins eina meiningu. Vér höfum útskýrendr í þúsundatali, sem slást um ritninguna, slást um Shakespeare — ekki einungis um, hvað hann skrifaði, heldr einnig um það, hvernig eigi að skilja það, sem allir játa að hann hafi skrifað. Það er ekkert það orð til, sem að eins megi skilja

á einn veg, hafi að eins eina þýðingu. Og þegar vér höfum nú fyrir oss setningu, sem leggja má út á 6 eða 7 mismunandi vegu, hvernig getum vér þá vitað hverja af öllum þessum mögulegu þýðingum vér eigum að leggja í hana, það skiftir engu hversu óskeikanleg setningin er, þegar hún kemr frá guðs munni. Vér hljótum því að sjá það, ef vér hugsum nokkuð út í það, að það, að gefa mönnum óskeikanlega opinberun í bók einni, er blátt áfram vitleysa. Það er eigi bjánaskapr, eigi hlutr, sem maðr getr efast um, heldr helber vitleysa. Lítum nú til ritningarinnar sjálfrar. Setjum nú snöggvast svo að hún sé óskeikul — en lítum þá hinsvegar á hina hundruð og þúsund mismunandi lesmáta. Lítum á trúflokkana hvernig þeir skipa sér í fylkingar og hamast hver á móti öðrum. Einn þeirra berst fyrir sannleikguðs, sem hann kallar, fyrir vissri þýðingu á einhverri setningu ritningarinnar, og byggir á því heilan trúflokk. Annar flokkrinn ætlar, að þessi flokkr sé einmitt útsendari djöfulsins fyrir að leggja þennan skilning í stað þenna, og byggir annan trúflokk á öðrum skilningi þessa sama staðar. Það er beinlínis ómögulegt, að gefa mönnum óskeikanlega opinberun á þenna hátt.

Vér skulum nú taka enn eitt dæmi. Hugsum oss, að guð með yfirnáttúrlegu kraftaverki hefði skrifað nafn sitt á himninum með stjörnustöfum, og þetta letr segði oss, að guð væri til, að hann elskaði mennina, að hann vilji að þeir breyti svo og svo. Þetta þyrfti nú að vera skrifað á einhverju tungumáli jarðar; svo þyrfti að þýða það á öll önnur tungumál jarðar. Og þó að það væri nú skrifað á öllum tungumála um jarðar, þá vitum vér að tungumálin breytast frá einni öld til annarar, eins og áðr hefir sagt verið. Að nokkrum hundruðum ára hér frá mundu menn ekki geta skilið það. Svo kæmi enn að nýju fram sú spurning, hvort ekki kynni nú svo að vera, að þessi niðrröðun stjarnanna hefði orðið einmitt eftir sömu lögum og þeim, er skipar þeim um himingeiminn þann dag í dag. Myndun frostrósanna á gluggarúðunum er alt að einu undarleg og aðdáanleg eins og hver önnur mynd úr þessum frostkrystöllum, sem raðaði þeim í stafi og orð.

Setjum nú svo, að guð reyndi að ná tilbeiðslu heimsins með því, að gjöra einhver ákaflega mikil kraftaverk, og þessi kraftaverk skyldu nú koma fyrir í dag eða á morgun. Kynslóðin, sem á eftir oss kæmi, yrði þó að taka þau trúanleg að eins fyrir það, að vér hefðum sagt, að þau hefðu fyrir komið, og ef að þessir eftirkomendr vorir væru vitrir,

þá mundu þeir ekki trúa einu orði af því. Þá getum vér og séð, hvílíkar hugsanir þessi ákaflegu kraftaverk mundu vekja. Fljótt mundi sú spurning koma upp, hvort það væri hinn sami guð, sá, sem vanr væri að vinna með reglum bundinni niðrskipan heimsins, og sá guð, sem eyðilegði og niðrbryti allar þessar reglur —. Spurningin kæmi fljótt upp, hvort ekki væru tveir guðir, annar betri og vitrari, annar, sem héldi uppi fastri reglu í heiminum, og annar, sem niðrbryti og eyðilegði allar reglur. Því að það ætti að vera hverjum ljóst, að, ef að hin nú verandi niðrskipan heimsins er rétt, ef að guð nú gjörir það, sem best er og réttast, þá er öll breyting á þessum náttúrulögum, sem nú gilda, breyting frá hinu rétta til hins ranga, frá hinu góða til hins illa; og svo mundi hins vegar þessi yfirnáttúrlega truflun eyðileggja alt traust manna á lögum náttúrunnar, eyðileggja allan möguleika til þekkingar eða mentunar. Þess konar opinberun væri því blátt áfram v i t l e y s a e i n.

En hvar stöndum vér nú, er vér höfum yfirvegað og skoðað allar þessar tegundir opinberunarinnar, og orðið þess vísari, að öllum getr þeim skjátlast? Höfum vér þá strandað á því, að guði sé alls ómögulegt, að tala til mannanna? Nei, ég trúi því, að guð hafi talað til mannanna, að hann tali til þeirra enn þann dag í dag, og með því að hann er hinn lifandi og starfandi guð, þá liggr það í hlutarins eðli, að hann hljóti að tala til hverrar þeirrar skyni gæddrar veru, sem fær er um, að skilja merki þau, er hann neytir til þess að láta í ljósi hugsanir sínar og lög. Guð hefir gefið manninum opinberun — opinberun í tveimr bindum; hið fyrra bindið er: náttúrulögin og lífið í alheiminum; hið annað bindið er: eðli, saga, þroskun, vonir og stríð mannkynsins. Náttúran og maðrinn er hin stöðuga, lifandi opinberun guðs, sem einlægt verðr skýrari og ljósari. Guð hefir opinberað sig sem hinn verandi, hinn eina, hinn ótakmarkaða, hinn eilífa, hinn skyni gædda, sem hinn persónulega í vissum skilningi þessa orðs, sem hinn góða, föðr og vin mannsins. Lítum nú snöggvast yfir blöðin í þessari stórkostlegu opinberun guðs og sjáum hvað þau hafa inni að halda. Þau segja oss frá tign guðs. Tign hans opinberast í stjörnum himins, í djúpi hins ómælilega rúms og á jörðu þessari, í tign fjallanna, úthafsins, jökulhlaupanna, hamrabeltanna, í druni fossanna eins og Niagara. Þessi yfirgnæfandi tign hlýtr að hrífa hjörtu vor og gjörir oss orðlausa. Þessi fylling hátignar guðs því nær yfirbugar oss og þessi opinberun

hans, sem hefir svona sterk áhrif á oss, er þó að eins hljóðskraf eitt um mátt hans og speki. Og öll þessi fegurð, hinn rólegi ljómi tunglsins er það stígr silfrsporum um skýjaflókana, hinn skæri glampi sjáfar og vatna, er sólargeislarnir falla á þau, hin fögru litbrigði rósa og blóma, hinn enn þá fegrri roði á meyjarkinnum, hin ósegjanlega fegrð er skín úr auga ungbarnsins, lokkarnir tígulegu er hringa sig á hinu saklausa og hreina enni þess, öll þessi fegrð, og svo hin meðfædda fegrðartilfinning mannsins, er hjálpa honum til að búa til aðdáanlega fagrar myndir úr steini, eða að mála upp hugsanir sínar á lérefti, svo unaðr er á að líta, — öll þessi takmarkalausa fegrð heimsins — hinn unaðslegi söngr fuglanna, fjaðraskraut Paradísarfuglsins, hinn listfengi útbúnaðr á vængjum fiðrildanna — öll þessi fegrð á himnum uppi og á jörðunni niðri er að eins dauft og óljóst endrskin, eðr skuggamynd af hinni óendanlegu fegrð, sem er hið innsta og dýpsta eðli alheimsins og sí og æ skín sem geisli guðs dýrðar. Og svo er kærleikrinn, kærleikr guðs, sem lýsir sér í örlæti hans við allar sínar skepnur, þessi kærleikr, sem brýst fram í hinum heitu og göfugu tilfinningum ástríkra vina, eða þegar móðirin beygir sig yfir barnið sitt sjúka og dauðvona í vöggunni og rennir til þess angistaraugum dag og nótt; þessi kærleikr, sem tengir saman karl og konu og skapar alla fegrð og sælu í lífi þessu. Ástin til sannleikans, sem verðr svo sterk að menn láta sig heldr á bál bera, en neita honum, eða þegar menn leggja lífið í sölurnar til þess að berjast fyrir velferð mannkynsins eða réttindum þess. Meðaumkvunin, viðkvæmnin, mannkærleikinn annara eins manna og Wilberforce, eða Howardmannanna, eða hins hetjulega Garrisons, manna sem lögðu á sig þrautir og þjáningar og hættu velferð og eignum sínum fyrir menn, sem þeir aldrei höfðu séð og engar líkur voru til, að þeir nokkurn tíma mundu sjá, fyrir glæpamennina, sem réttvísin hafði lokað inni í dýflissum, fyrir þá menn, sem aldrei mundu geta nefnt nafn þeirra og aldrei sýnt þeim svo mikið sem þakklæti — alt þetta er að eins lítill glampi, eðr endrskin af hinu óendanlega lífi alheimsins, er mælir hljóðlega, þótt aldrei geti það í heyranda hljóði sagt frá tign og dýrð hinnar óskýranlegu, miklu veru, er stendr á bak við þetta alt saman.

Það er þessi alheimr — náttúrulögin, sem opinberun guðs sannleika, fegrðin, sem opinberun á smekk himnaföðrsins, hetjuverkin og guðsástin og sannleiksástin; mannúðin og mannkærleikrinn, sem op-

inberun guðs kærleika. — Það er þessi alheimr, — náttúran og maðrinn —. Það er þessi bók guðs í tveimr bindum, sem er hin eina bók, sem guð hefir nokkru sinni skrifað. Allr sannleiki kemr úr þessari bók, hvort heldr það er kristni eða buddhism, hvort heldr það er í Ameríku eða í miðri Afríku, hvort heldr það er í stjörnum himins, eða á jörðu vorri, hvort heldr í vísindum eða trúbrögðum, hvort heldr meðal villidýra eða manna. Hvað eina sem satt er, er bókstafr, atkvæði, orðtak, eðr setning úr þessari bók. Hvað eina, sem ósatt er, hvort heldr Kristr eða Buddha hefir sagt það, hvort heldr það er í biflíu kristinna manna, eða Hindúa, eða úr trú Afríkumanna á stokka eðr steina — hvað eina, sem ósatt er, er mislestr, rangskilið og rangþýtt úr þessari einustu stórkostlegu bók guðs. Allar biflíur heimsins hafa að eins verið ófullkomnar tilraunir manna að lýsa hinum óhagganlega eilífa sannleik. Og mér virðist það ekki einungis sýna skort á vitsmunum, heldr jafnvel guðleysi, ef menn hefðu skýra hugmynd um það, að gera kröfur til þess, að bók, sem skrifuð hefir verið fyrir mörgum hundruðum ára, þegar heimrinn var í villi-ástandi, þegar 99 hundruðustu hlutar af öllu því, er menn nú vita var óþekt — að bók þessi, sem enginn veit, hvar hefir verið skrifuð, eða hverjir hafi skrifað hana, eða hvenær hún hafi verið skrifuð — ég endrtek það, að mér finnst það eigi einungis sýna skort á vitsmunum, heldr jafnvel guðleysi, að vera að skrúfa menn til þess að trúa því, að þetta sé guðs eigin heilög bók, og menn sýna sannarlega af sér guðleysi og rísa upp á móti guði með því, að taka hana fram yfir bók náttúrunnar, því að sú bókin með hinum ótæmanlega sannleika guðs, útilykr ekki kristnina, ekki Krist, ekki einu sinni biflíuna. Hún innibindr alt það, sem mannkynið hefir fundið satt að vera og mun finna framvegis. Þetta er bókin guðs, hin einasta hugsanlega opinberun, sem mögulegt var að gefa mönnum — bók sú, sem hver og einn getr lesið alveg eftir því hvað hann hefir mikla hæfileika.

Vér skulum nú snöggvast líta yfir helztu einkenni opinberunar þessarar. En eins og ég sagði við upphaf ræðu þessarar, þá á það heima við hana sem aðrar bækur, að hvað oss sjálfa snertir, þá getum vér misskilið og rangþýtt hana. Hún er algjörlega óskeikanleg í sjálfu sér, en sjálfum oss hættir oft við misgripum, og oft er það, að vér getum ekki verið vissir um, að vér höfum lesið rétt, af því skilningr vor er þá ekki svo fullkominn. En þessi bók, hún hefir

inni að halda allan sannleika. Og jafnóðum og vér verðum færir um að lesa hana, jafnóðum og vér getum staðhæft setningar hennar, þá sjáum vér guðs sannleika einlægt betr og betr, vér öðlumst þá allan þann óskeikulleika, sem mögulegt er, allan þann óskeikulleika, sem vert er að ná.

Hið annað, sem er einkennilegt við þetta guðs orð er það, að véfrétt þessi þagnar aldrei. Það er eins og sálmaskáldið segir: „Einn dagrinn segir það öðrum, og ein nóttin kunngjörir það annari.“ Það er að segja: á hinu sama augnabliki talar guð á hverri tungu, til sérhvers þjóðflokks, til sérhvers manns, og opinberar á hverri stundu hverjum manni svo mikinn sannleika, sem hann er líkamlega, siðferðislega, andlega fær um að skilja. Biflía þessi hvílir ekki á útlegging nokkurs manns, eða nokkurs tíma, hún byggist ekki á neinum sögnum eða vottorðum manna. Þetta orð sitt talaði guð fyrir mörg hundruð þúsund árum, og hann talar það enn með hinum sama óskeikulleika. Menn geta heyrt það í dag, menn geta heyrt það í nótt, menn geta heyrt það á morgun. Hin næstu hundrað þúsund árin mun það hljóma, já, hljóma til eilífðar. Þetta er þá biflía sem ekki hvílir á neinni þýðingu manna, ekki á neinum vottorðum, ekki á neinni sögusögn — það er bók sú, er málið aldrei úreldist á og verðr aldrei misskilið svo af nokkrum manni, að eigi megi leiðrétta það.

Enn er eitt einkenni ritningar þessarar, en það er það, að opinberun hennar fylgir lögmáli þroskunarinnar. Allr guðs sannleiki, alt guðs líf er í henni og það flettist í sundr eins og bókfell, sem menn rituðu á í fyrri daga, og fylgist öld eftir öld, stig fyrir stig með framförum mannlegs skilnings og pörtum tímanna. Í dag getum vér lesið það alt, sem vér þurfum að vita um nauðsynjar lífsins í dag. Á morgun getum vér lesið þar alt, sem vér þurfum að vita á morgun. En nú kem ég að einu atriði, sem ég vildi lítillega minnast á. Og er það það, að hér liggr ein aðalmeinsemd heimsins. Í stað þess, að gefa sig kostgæfilega við því, að framkvæma þá hluti, sem mögulegir eru og nauðsynlegir fyrir daginn í dag, í stað þess að gjöra heiminn að því, sem hann á að vera í dag, þá vanrækja menn skyldur hins yfirstandandi tíma, sem liggja fyrir fótum þeirra, en fara að brjóta heilann yfir hlutum, sem þeim er ómögulegt að vita um, og sem ekki kæmu þeim að nokkru gagni, þótt þeir vissu um þá alt, sem mögulegt er að vita. Vér vitum nóg nú þegar í dag til þess, að leggja hér grundvöllinn að

hinu sanna ríki guðs. Vér vitum nóg þegar í dag til þess, að sópa héðan burtu níu tíundu hlutum af öllu því böli, sem mannkynið þjáist af. En að mestu leyti vanrækjum vér þessa hluti, en dreymum um, brjótum heilann um, stælum um annað eins og það, hvort vér munum þekkja vini vora í öðru lífi, hvort vér þar munum verða íklæddir líkama eins og hér, eða flögra um, sem óþreifanlegar vofur — og er það svo vaxið, að oss er ómögulegt að vita nokkuð um það með vissu, og alveg gagnslaust fyrir oss, þótt vér vissum það alt út í hörgul.

Þá er enn eitt einkennilegt við opinberun þessa, sem ég oftar hefi drepið á í ræðu þessari. En það er það, að opinberun þessi samsvarar öllum þörfum manna. Hún fræðir oss um alt, sem vér þurfum að vita, að því er snertir öll spursmál hins daglega lífs. Enginn er sá hlutr, sem þú þarft að vita til þess, að lifa göfugu lífi, sem karl eða kona, að ekki geti hún frætt þig um það.

Hið seinasta einkenni, sem ég vil benda yðr á, er það, að opinberun þessari er enn ekki lokið, og samkvæmt hlutarins eðli verðr henni aldrei lokið, hún getr ekki annað en haldið einlægt áfram. Þessi opinberun flettist í sundr öld eftir öld og fylgir skref fyrir skref þroskun mannlegs skilnings og er einmitt miðuð við skilning eðr þekkingu manna. Og ef að vér viljum ómaka oss með því, að hugsa út í það, þá munum vér geta skilið margar þær ráðgátur, sem áðr hafa verið oss torskildar og óljósar. Vér furðum oss á því, að guð skuli ekki opinbera oss þá hluti ýmsa, sem reynsla eðr þekking heims þessa nær ekki til. Vér þykjumst vita að hann gæti það, ef hann vildi og ætlum því, að hann vor himneski faðir gjöri það af gjörræði að dylja það fyrir oss, að láta oss ekki geta þekt það. En vitum vér nú, hvað þetta þýðir? Vitum vér, að þá óskum vér þess, sem er ómögulegt, er vér óskum oss þekkingar á annars heims hlutum? Hvað er nú þekking? Við þekkingu skiljum vér það, eins og áðr er frá skýrt, að skipa í flokka mannlegri reynslu. Vér getum ekkert vitað annað, en það, sem heimrinn hefir áðr fundið með reynslunni. Það er enginn mögulegleiki á því að þekkja nokkuð, sem vér höfum enga reynslu fyrir. Vér skulum taka dæmið um samband vort við barnið til að skýra þetta. Því mér finst það vera áríðandi. Ég tek barnið mitt, sjö ára gamalt, og reyni á allar lundir að láta það skilja eitthvað, sem það eftir hlutarins eðli ekki getr skilið fyr, en árin færast yfir það. Ég er þá að fást við starf það, sem ekkert vit er í, sem er gagnslaust, sem ekki er til

annars, en að eyða tímanum. Það er sama, hvað skýrum orðum ég fer um það, barnið skilr það ekki. Setjum svo, að vér séum að sigla á skipi yfir ókend höf, sem enginn hefir áðr yfir farið. Hið eina ráðið til þess, að vita nokkuð um það, hvað sé hundrað mílur fram undan oss, er að sigla þessar hundrað mílur og vita hvað þar sé. Annar vegr er ekki hugsanlegr. Setjum nú svo, að guð færi að skýra það á mannlegri tungu, á hinni vanalegu tungu, sem töluð er í Boston, hvað eðr hvernig hið annað líf sé og hvað himnaríki sé. Hann gæti fyllilega lýst því, en vér skildum það ekki fremr, en það væri bull eitt, því enginn hugsanlegr vegr er til, að vér getum skilið hugmyndir þær, sem ganga út yfir takmörk mannlegrar reynslu. Setjum svo, að maðr einn kæmi aftr úr ferðum sínum um önnur lönd, og reyndi að skýra fyrir yðr eitthvað, sem þér hvorki hafið séð, né heyrt um. Getið þér ekki séð, hve árangurslaust það væri. Hvaða litr var á því? Það var algjörlega nýr litr ólíkr öllum litum, sem þér nokkurn tima hafið séð á allri æfi yðar. Og sama væri um öll einkenni þess. Ef að hann færi að segja yðr að það væri ólíkt öllu, sem þér hafið áðr séð, þá væri það hið sama, hvað lengi hann talaði, þegar hann væri búinn, þá væruð þér engu nær. Þannig er því varið um hinn ókomna tíma, hið annað líf — setjum svo, að það sé nú til — að ef að það er algjörlega ólíkt öllu því, sem vér höfum áðr reynt, þá er það ekkert gjörræði af guði, að hylja fyrir oss þenna ókomna tíma. Þessi opinberun getr því aldrei enda tekið, hún fylgir skref fyrir skref vorri eigin reynslu og þroskun. Og hún hefir þenna þægilega laðandi leyndardóm við sig, að hún dregr oss til að ganga lengra og lengra til þess að sjá, hvílíka dýrð og tign hinn ókomni tími muni færa oss. Og þetta er ekki böl heldr dásamleg blessun. Þegar ég veit hvernig saga ein muni enda, þá langar mig lítið til að lesa hana. Ef að ég nú þegar þekti eilífðina, þá mundi það vera þreytandi og leiðindafult starf, að ganga í gegnum aldirnar. Mig mundi helst langa til að leggja mig fyrir og sofna eilífum svefni. Þessi opinberun getr því aldrei enda tekið og guði sé lof, að því er svo varið. Vér munum lesa nýtt blað með hverjum degi, nýja bók með hverri öld og einlægt munum vér finna undrasögur og dýrðleg sannindi frá eilífð til eilífðar.

---

# 100 ritningarstaðir, er sanna Unitaratrú.

[Þýtt].

—:o:—

Unitarar trúa, að Jesús Kristr sé sonr guðs og frelsari mannkynsins. Þeir trúa því, að hann hafi verið sendr af guði, og að kenningar hans hafi verið guðdómlegar. Þeir trúa því, að fagnaðarboðskapr hans hafi frá guði komið, að siðgæðið, sem boðskapr þessi verkar, andinn, sem er í honum ríkjandi, loforðin, vonirnar, launin, sem hann heitir, hegningin, sem hann hótar, að alt þetta komi frá hinum mikla himnanna drottni, er Gyðingar tignuðu sem Jahve og vér köllum guð. — En þeir trúa því ekki, að Jesús Kristr sé guð sjálfr; þeir trúa því að, þó að hann sé hátt upp hafinn yfir alt hið skapaða, þá sé hann þó vera, aðgreindr frá föðurnum, óæðri en hann, og undir hann gefinn. Til þess að sanna þetta, styðjast þeir við eftirfylgjandi 100 ritningarstaði auk annara ómótmælilegra sannana:

I. sönnunin er sú, að hinir helgu rithöfundar hafa skoðað Krist, sem aðgreindan frá guði föður, eins og maðr greinist frá manni. Í Jóh. 8, 17. og 18. er Kristr látinn segja: „Það er og skrifað í yðar lögmáli, að tveggja manna vitnisburðr sé sannr.

Eg em sá sem vitna um mig sjálfan; og faðirinn, sem sendi mig, vitnar um mig.

II. sönnunin er sú, að Kristr aldrei kallar sjálfan sig guð, en talar um föðurinn, sem sendi hann, sem guð, já, hinn eina sanna guð. Í Jóh. 17, 3. segir Kristr: „En þetta er hið eilífa líf, að þeir þekki þig einan sannan guð og þann sem þú sendir Jesúm Krist.“

III. er það, að á fjölda mörgum stöðum er Kristr nefndr sonr guðs, sjá Matt. 3, 17.: „Og sjá, þá heyrðist rödd af himnum, er sagði: þessi er sonr minn elskulegr, á hverjum ég hefi velþóknan.“ En hvaða sonr getr verið jafngamall föðr sínum?

IV. er það, að hann er kallaðr Kristr, eða hinn smurði guðs. „Guð smurði Jesúm frá Nazaret með heilögum anda og krafti.“ Post.gjörn. 10, 38. Er nú sá sem smyr hinn sami og sá sem smurðr er?

V. Hann er skoðaðr, sem prestr. Páll segir: Gefið gætur að Jesú Kristi .... æðsta presti vorrar játningar. Hebr. 3, 1.—2. En nú er það starf prestsins, að þjóna guði og þá getr prestrinn ekki verið guð sá, er hann þjónar.

VI. Kristr er skoðaðr sem meðalgöngumaðr milli guðs og manna. „Einn er guð og einn er meðalgangarinn milli guðs og manna, maðrinn Jesús Kristr. 1. Tím. 2, 5.

VII. Sem frelsari manna var hann sendr af föðrnum. „Og vér höfum séð og vitnað, að faðirinn hefir sent soninn heimsins frelsara. 1. Jóh. 4, 14.

VIII. Hann er skoðaðr, sem postuli. „Gefið gætr að Jesú Kristi, postula.... sem trúr var þeim, er hann til þess skipaði."

IX. Kristr er skoðaðr, sem formælandi mannkynsins við guð, sjá Róm. 8, 34.: „Kristr, sem dáinn er og það sem meira er, líka upprisinn, sem er á hægri hönd guði, og sem einnig biðr fyrir oss."

X. Sagt er að guð sé höfuð Krists. 1. Kor. 11, 3. „En vitið það, að Kristr er hvers karlmanns höfuð, en karlmaðrinn konunnar höfuð, en Guð Krists höfuð."

XI. Sagt er að Kristr sé (eign) guðs. 1. Kor. 3, 23.: „Alt er yðvart, þér eruð Krists, en Kristr er Guðs."

XII. Kristr segir Jóh. 10, 29.: „Faðirinn er meiri en allir," og er þá ekki faðirinn meiri en sonrinn?

XIII. Enda segir Kristr það og sjálfr Jóh. 14, 28.: „Faðirinn er mér meiri."

XIV. Kristr neitar beinlínis að hann sé guð: „Hví kallar þú mig góðan? Enginn er góðr nema guð einn."

XV. Þegar Kristr er búinn að segja: „ég og faðirinn erum eitt," þá útskýrir hann það fyrir lærisveinum sínum þannig að þetta, að vera eitt með föðrnum þýði ekki það, að þeir séu sama eðlis eðr sama efnis, heldr það, að í honum búi andi föðrsins Jóh. 17, 21.: „Svo að allir séu eitt, eins og þú faðir ert í mér, og eg í þér, svo að þeir og séu eitt í okkur." Ef að þetta ætti að sanna að Kristr væri guð, þá hlytu menn að játa um leið, að lærisveinarnir væru guðir líka, sem eiga að vera eitt í guði og kristi og meira að segja þessir „allir" sem fyrst er talað um í grein þessari, ættu þá einnig að vera guðir og yrði það hver einasti maðr á jörðu, sem er vitleysa. [Meira].

---

Borguð „Dbr." síðan í júlí.

— Finsburg Station: Ben. Johnson (I.). — Gimli: Sveinn Thorvaldson og Th. Thorleifsson. — Hnausa: Jón Þorsteinsson. — Hecla: Bergþór Þórðarson. — Otto: Páll Pálsson (I.). — Selkirk: Hjálmar Guðmundsson, Hans Hansson (I.), Jósepína Jósafatsdóttir (I.) og E. Ólafsson [50 c.]. — Wpeg: Kr. Jónsson [50 c.], Sölvi Þórarinsson, Árni Þórðarson, Jósep Skaptason, Sig. Bárðarson, Jón Stefánsson. — Mountain: Skapti B. Brynjólfsson.— Akra: Einar Guðmundsson [50 c.].

---

☞ ☞ Nýkomið í BÓKVERZLAN G. M. THOMPSON'S. ☜ ☜
Söngvar með þremr og fjórum röddum, I. hefti. Gefnir út af söngfél. „Diana" á Akureyri. Kosta í bandi $0,50. Óvanalega gott verð.
☞ ☞ ☞ Komið og kaupið. ☜ ☜ ☜

ÞJÓÐVILJINN UNGI, III.ár, árg. 40 nr. á $1,00. Ritstj. Skúli Thoroddsen. Hann er frjálslyndasta íslenzka blaðið, flytr lesendum sínum innlendar og útlendar fréttir, fróðlegar, gagnlegar og ljóst samdar ritgjörðir, bókafregnir og fl. Bóksala G. M. Thompson. — Gimli, Man.

STEFNIR, 30 tölublöð um árið, kostar $0,75, gefinn út á Akureyri. Flytr glöggastar fréttir af Norðrlandi. Frjálslynt blað, fróðlegt og skemtilegt.
Bóksala G. M. Thompson. — — Gimli, Man.

Nýjir kaupendr ÍSAFOLDAR 1894, fá í kaupbæti:

1. Sögusafn Ísafoldar 1892, 270 bls., með 17 ágætum skemtisögum.
2. Sögusafn Ísafoldar 1893, 176 bls., með 13 ágætum skemtisögum.
3. Pax vobiscum: Friðr sé með yðr, eftir hinn heimsfræga snilling prófessor H. Drummond, innbundið (48 bls.).

BÓKSALA G. M. THOMPSON. — — GIMLI, MAN.

Nýjir kaupendr að II. árg. Dagsbrúnar fá í kaupbæti myndina Faðir vor. Þeir geta og fengið I. árg. Dbr. fyrir hálfvirði, að eins 50 cents.

Útsölumenn SUNNANFARA í Vestrheimi eru:
Sigfús Bergmann, Garðar, N.D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og Bóksala G. M. Thompson. — — Gimli, Man.

☞ *Ég leyfi mér að leiða athygli þeirra kaupenda „Dagsbr." sem enn standa í skuld fyrir þenna árg. hennar, að því, að nú eru ¾ árg. út komnir. Ég hefi ekki búist við að menn gætu borgað blaðið fram að þessum tíma, en nú ættu skuldunautar þess að hafa það hugfast, að það er kominn tími til að sýna einhvern lit á borgun þess. Sá tími er og nú í hönd farandi — fyrir vel flestum —, sem ætti að veita þeim hægast með að borga það.*

*Sérstaklega er skorað á þá, sem skulda fyrir bæði árin, að draga nú ekki lengr að gera sitt til að tryggja framtíð blaðsins, með því að borga skuld sína.* G. M. Thompson.


G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir


Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

"DAGSBRÚN" kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

| | |
|---|---|
| Árgangrinn kostar í Vestrheimi | $1,00 |
| Sendr til Íslands en borgaðr hér | $0,75 |
| Sendr til Íslands en borgaðr þar | Kr. 2,00. |

— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. —
Skrifstofa blaðsins er hjá
Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.